# VÖLUSPÁ.

---

1. Hljóðs bið ek allar
helgar kindir,
meiri ok minni
mögu Heimþallar;
vilda ek Valföður
vjel framtelja,
fornspjöll fíra
þau ek fremst of nam.
2. Ek man jötna
ár of borna
þá er forðum
mik fædda höfðu;
níu man ek heima,
níu íviði,
mjótvið mæran
fyrir mold neðan.
3. Ár var alda,
þá Ýmir byggði,
vara sandr nje sær,
nje svalar unnir;
jörð fannsk æva,
nje upphimin,
gap var ginnunga,
en gras hvergi.
4. Áðr Burs synir
bjóðum ypptu,
þeir er miðgarð
mæran skópu;
sól skein sunnan
á salar steina,
þá var grund gróin
grœnum lauki.
5. Sól varp sunnan,
sinni mána,
hendi inni hœgri
um himin-jódýr.
Sól þat nje vissi,
hvar hon sali átti,
stjörnur þat nje vissu,
hvar þær staði áttu,
máni þat nje vissi,
hvat hann megins átti.
6. Þá gengu regin öll
á rökstóla,

ginnheilög goð,
ok um þat gættusk;
nótt ok niðjum
nöfn um gáfu,
morgun hjetu
ok miðjan dag,
undorn ok aptan,
ár of at telja.

7. Hittusk Æsir
á Iðavelli,
þeir er hörg ok hof
há-timbruðu;
afla lögðu,
auð smiðuðu,
tangir skópu
ok tól gjörðu.

8. Tefldu í túni,
teitir váru,
var þeim vættugis
vant ur gulli;
unz þrjár kvámu
þursa meyjar
ámáttkar mjök
ur Jötunheimum.

9. þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilög goð,
ok um þat gættusk:
hverr skyldi dverga
drótt um skepja
ur Brímis blóði
ok ur blám leggjum.

10. þar var Mótsognir
mestr um orðinn
dverga allra,
en Durinn annarr;
þeir mannlíkun
mörg of gjörðu,
dverga ur jörðu,
sem Durinn sagði.

11. Nýi ok Niðí,
Norðri ok Suðri,
Austri ok Vestri,
Alþjófr, Dvalinn,
Nár ok Náinn,
Nippingr, Dáinn,
Veggr, Gandálfr,
Vindálfr, þorinn,

12. Bifr, Bafr,
Bömbr, Nóri,
Anar, Onar,
Ai, Mjöðvitnir,
þrár ok þráinn,
þrór, Vitr, Litr,
Nýr ok Nýráðr;
nú hefik rekka,
Reginn ok Ráðsviðr,
rjett um talda.

13. Fili, Kili,
Fundinn, Náli,
Hepti, Vili,
Hanar ok Svíor,
Billingr, Bruni,
Bildr, Búri,

Frár, Fornbogi,
Frægr ok Lóni,
Aurvangr, Vari,
Eikinskjaldi.

14. Mál er dverga
í Dvalins liði
ljóna kindum
til Lofars telja,
þeir er sóttu
frá salar-steini
aurvanga sjót
til jóruvalla.

15. Þar var Draupnir
ok Dólgþrasir,
Hár, Haugspori,
Hljevangr, Glói,
Skirfir, Virfir,
Skafiðr, Ái,
Álfr ok Yngvi,
Eitr ok Óinn,

16. Fjalar ok Frosti,
Finnr ok Ginnar,
Hjeri, Högstari,
Hljóðólfr, Móinn.
Þat mun uppi,
meðan öld lifir,
langniðja tal
Lofars hafat.

17. Unz þrír kvámu
ur því liði
öflgir ok ástgir
Æsir at húsi.
Fundu á landi
litt megandi
Ask ok Emblu
örlöglausa.

18. Önd þau nje áttu,
óð þau nje höfdu,
lá nje læti
nje litu góða;
önd gaf Óðinn,
óð gaf Hœnir,
lá gaf Löðr
ok litu góða.

19. Ask veit ek standa,
heitir Yggdrasill,
hárr baðmr ausinn
hvíta auri;
þaðan koma döggvar
þærs í dala falla,
stendr æ yfir grœnn
Urðar brunni.

20. Þaðan koma meyjar
margs vitandi
þrjár ur þeim sæ,
er und þolli stendr.
Urð hjetu eina,
aðra Verðandi,
skáru á skíði,
Skuld ina þriðju;
þær lög lögðu,
þær líf kuru,
alda börnum
örlög at segja.

21. Þat man hon fólkvíg
fyrst í heimi,
er Gullveig
geirum studdu,
ok í höll Hárs
hana brendu;
þrisvar brendu
þrisvar borna,
opt, úsjaldan,
þó hon enn lifir.
22. Heiði hana hjetu
hvars til húsa kvam,
ok völu velspá,
vitti hon ganda;
seið hon kunni,
seiði hon leikin,
æ var hon angan
illrar brúðar.
23. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilög goð,
ok um þat gættusk:
hvárt skyldu Æsir
afráð gjalda,
eðr skyldu goð öll
gildi eiga.
24. Fleygði Óðinn
ok í fólk um skaut,
þat var enn fólkvíg
fyrst í heimi;
brotinn var borðveggr
borgar Ása,
knáttu Vanir víg-spá
völlu sporna.
25. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilög goð,
ok um þat gættusk:
hverr hefði lopt allt
lævi blandit
eðr ætt jötuns
Óds mey gefna?
26. Þórr einn þar var
þrunginn móði,
hann sjaldan sitr,
er hann slíkt of fregn;
á gengusk eiðar,
orð ok sœri,
mál öll meginlig,
er á meðal fóru.
27. Veit hon Heimþallar
hljóð um fólgit
und heiðvönum
helgum baðmi;
á sjer hon ausask
aurgum forsi
af veði Valföðurs.
Vituð enn eða hvat?
28. Ein sat hon úti,
þá hinn aldni kvam
Yggjungr Ása,
ok í augu leit:
hvers fregnit mik?
hví freistit mín?

allt veit ek, Óðinn,
hvar þú auga falt þitt
í inum mœra
Mímis brunni.
Drekkr mjöð Mímir
morgun hverjan
af veði Valföðurs.
Vituð enn eða hvat?
29. Valdi henni Herföðr
hringa ok men,
fjespjöll spaklig
ok spá ganda,
sá hon vítt ok um vítt
of veröld hverja.
30. Sá hon valkyrjur
vitt um komnar,
gjörvar at ríða
til goð-þjóðar.
Skuld hjelt skildi,
en Skögul önnur,
Gunnr, Hildr, Göndul
ok Geirskögul.
Nú eru taldar
nönnur Herjans
gjörvar at ríða
grund valkyrjur.
31. Ek sá Baldri
blóðgum tivor
Óðins barni
örlög fólgin;
stóð um vaxinn
völlu hærri
mjórr ok mjök fagr
mistilteinn.
32. Varð af þeim meiði
er mjer sýndisk
harmflaug hættlig,
Höðr nam skjóta.
33. Baldrs bróðir
var of borinn snemma,
sá nam Oðins sonr
ein-nættr vega;
þó hann æva hendr
nje höfut kembði,
áðr á bál um bar
Baldrs andskota.
En Frigg um grjet
i Fensölum
vá Valhallar.
Vituð enn eða hvat?
34. Hapt sá hon liggja
und hvera lundi
lægjarn-líki,
Loka úþekkjan;
þá kná Vala
víg bönd snúa
heldr um harðgjör
höpt ur þörmum.
þar sitr Sigyn
þeigi um sínum
ver vel glýjuð.
Vituð enn eða hvat?
35. A fellr austan
um eitr-dala

saurum ok sverðum,
Sliðr heitir sú.
36. Stóð fyr norðan
á Niðafjöllum
salr ur gulli
Sindra ættar;
en annarr stóð
á Okolni,
bjórsalr jötuns,
sá Brímir heitir.
37. Sal sá hon standa
sólu fjarri
Ná-ströndu á,
norðr horfa dyr;
sá er undinn salr
orma hryggjum,
falla eitr-dropar
inn of ljóra.
38. Sá hon þar vaða
þraunga strauma
menn meinsvara
ok morðvarga
ok þá annars glepja
eyra rúnu.
þar saug Niðhöggr
nái framgengna,
sleit vargr vera.
Vituð enn eða hvat?
39. Austr sat hin aldna
i járnviði,
ok fœddi þar
Fenris kindir;
verðr af þeim öllum
einna nokkur
tungls tjúgari
i trölls hami.
40. Fyllisk fjörvi
feigra manna,
rýðr ragna sjót
rauðum dreyra;
svört verða sólskin
of sumur eptir,
veðr öll válynd.
Vituð enn eða hvat?
41. Sat þar á haugi
ok sló hörpu
gýgjar hirðir,
glaðr Egðir;
gól um hánum
i gaglviði
fagr-rauðr hani,
sá er Fjalarr heitir.
42. Gól um Ásum
Gullin-kambi,
sá vekr hölda
at Herjaföðurs;
en annarr gól
fyrir jörð neðan,
sótrauðr hani
at sölum Heljar.
43. (Þá kná Vala
hapt bönd snúa,
heldr um harðgjör
höpt ur þörmum.)

Geyr Garmr mjök
fyr Gnipa-helli,
festr mun slitna,
en freki renna.
Fjöld veit hin fróða,
fram sje ek lengra
um ragna-rök
röm sigtífa.

44. Brœðr munu berjask
ok at bönum verða,
munu systrungar
sifjum spilla;
hart er í heimi,
hórdómr mikill,
skeggöld, skálmöld,
skildir 'ru klofnir,
vindöld, vargöld,
áðr veröld steypisk;
grundir gjalla,
gífr fljúgandi;
mun engi maðr
öðrum þyrma.

45. Leika Mímis synir,
en mjótviðr kyndisk
at hinu gamla
gjallar-horni;
hátt blæss Heimþallr,
horn er á lopti,
mælir Óðinn
við Mímis höfut.

46. Ýmr it aldna trje,
en jötunn losnar,
skelfr Yggdrasils
askr standandi.
Hræðask allir
á helvegum,
áðr Surta þann
sefi of gleypir.

47. Geyr Garmr mjök
fyr Gnipa-helli,
festr mun slitna,
en freki renna.

48. Hrymr ekr austan,
hefisk lind fyrir,
snýsk jormungandr
í jötun-móði;
ormr knýr unnir,
en ari hlakkar,
slitr nái neffölr,
Naglfar losnar.

49. Kjöll ferr austan,
koma munu Múspells
of lög lýðir,
en Loki stýrir;
fara fífl-megir
með freka allir,
þeim er bróðir
Bileists í för.

50. Hvat er með Ásum?
hvat er með Álfum?
gnýr allr Jötunheimr,
Æsir 'ru á þingi;
stynja dvergar
fyr stein-dyrum

veggbergs vísir.
Vituð enn eða hvat?

51. Surtr ferr sunnan
með sviga lævi,
skínn af sverði
sól valtífa;
grjótbjörg gnata,
en gífr rata,
troða halir helveg,
en himin klofnar.

52. þá kemr Hlínar
harmr annarr fram,
er Óðinn ferr
við úlf vega;
en bani Belja
bjartr at Surti;
þá mun Friggjar
falla angantýr.

53. Geyr Garmr mjök
fyr Gnipahelli,
festr mun slitna,
en freki renna;
gin lopt yfir —

54. þá kemr hinn mikli
mögr Sigföðurs
Viðarr vega
at valdýri;
lætr megi Hveðrungs
mund um standa
hjör til hjarta,
þá er hefnt föður.

55. þá kemr inn mœri
mögr Hlóðynjar,
gengr Óðins son
við úlf vega;
drepr hann af móði
Miðgarðs veor;
munu halir allir
heimstöð ryðja.

56. Geyr Garmr mjök
fyr Gnipahelli,
festr mun slitna
en freki renna.
Gengr fet níu
Fjörgynjar burr
neppr frá naðri
níðs úkvíðnum.

57. Sól tekr sortna,
sígr fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjörnur;
geysar eimi
við aldr-nara,
leikr hárr hiti
við himin sjálfan.
Geyr Garmr etc.

58. Sjer hon upp koma
öðru sinni
jörð ur œgi
iðjagrœna;
falla forsar,
flýgr örn yfir,
sá er á fjalli
fiska veiðir.

59. Hittask Æsir
á Iðavelli,
ok um mold-þinr
máttkan dœma;
ok minnask þar
á megin-dóma
ok á fimbul-týs
fornar rúnar.
60. þá munu Æsir
undrsamligar
gullnar töflur
í grasi finna,
þærs í ár daga
áttar höfðu
fólkvaldr goða
ok Fjölnis kind.
61. Munu úsánir
akrar vaxa,
böls mun alls batna,
Baldr mun koma;
búa þeir Höðr
Hropts sigtoptir,
ve valtífa.
Vituð enn eða hvat?
62. þá kná Hœnir
hlautvið kjósa,
ok burir byggja
brœðra tveggja
vindheim víðan.
Vituð enn eða hvat?
63. Sal sjer hon standa
sólu fegra,
gulli þakðan
á Gimli hám;
þar skulu dyggvar
dróttir byggja,
ok um aldr daga
yndis njóta.
64. þá kemr inn ríki
at regin-dómi
öflugr ofan,
sá er öllu ræðr;
semr hann dóma
ok sakar leggr,
vesköp setr,
þau er vera skulu.
65. Kemr inn dimmi
dreki fljúgandi,
naðr fránn neðan
frá Niðafjöllum;
berr sjer í fjöðrum
flýgr völl yfir
Niðhöggr nái,
nú mun hann scykvask.

---

Med hensyn til strofernes ordning bemærkes, at Cod. regius og den Arna-Magnæanske udgave ere lagte til grund. Men dersom man vil læse sangen i den sammenhæng, hvori den findes i Rasks udgave, så læser man stroferne med de tal, de her have, i følgende orden: 1 til 20. 28. 29. 30. 22. 21. 23. 24. 25. 26. 27. 39. 40. 41. 42. 31. 32. 33. 34. 43. 47. 35. 36. 37. 38. 44. 45. 46. 47. 48. 49. 51. 50. 52. 54 til 65. Vil man derimod have ordenen i 281, så læser man stroferne i denne orden: 1 til 20. 28. 29. 22. 21. 30. 23. 24. 25. 26. 27. 39. 40. 41. 42. 31. 32. 33. 34. 43. 35. 36. 37. 38. 44. 45. 46. 47. 48. 49. 51. 50. 52. 53. 54 til 65. Derimod er ordenen i membr. 544 denne: 1 til 20. 25. 26. 27. 39. 40. 21. 22. 23. 24. 43 (de fire første linier). 34 (de fire sidste linier). 43 (de fire sidste linier). 41. 42. 37. 38. 47. 44. 45. 46. 50. 47. 48. 49. 51. 52. (hull). 57. 47. 58 til 65.



Trykt som manuskript for Prof. *N. M. Petersen*,
hos Direktør *Jens Hostrup Schultz*,
Kongelig og Universitets-Bogtrykker.

